2. *Hildr*, valkyrja; valkyrju *veggr*, skjöldr; *Njörðr*, Áss; skjaldar *Æsir*, menn. — 3. *Svafnir*, ormsheiti; *Svafnis látr*, ormsból, gull; gulls *sviftendr*, menn.

Menn stungu saman nefjum og hjuggust með skeggjum og gengu í hörðu skapi í sveitir, er þeir kendust við mig; þeir tóku að iðrast griðanna.

65 (**Grettir Ásmundarson**). Flæsu[1] far es váskeytt.[2] Fár örveðrs æskiruðr[3] kann görva[4] sea sverð í hári[5] fyr öðrum. Ek veðja hins, þót atgeira éldraugar[6] eigi meiri sin, at þeir hafi-t meiri hreðjar[7] enn vér.

1. *flása*, tg. Boers f. *flaska*, lauslát stúlka, eftir skýrngu Boers, og mun þá vera sama orð og f l æ s a, sem haft er um upprof í illviðri jafnt og g l e n n a, enn g l e n n a er líka haft um léttúðuga stúlku. — 2. *váskeytt*, illa skeytt. Hugsunin ætti þá að vera: hegðun hinnar léttúðugu stúlku er skeytingarlítil, enn þessi skýring er þó ekki fullvís. — 3. *örveðr*, bardagi; *æskiruðr (= runnr)* bardaga, maðr. — 4. *görva* = gerla. — 5. *sverð í hári*, 'penis'. — 6. *atgeira él*, bardagi; *draugar* (viðir) bardaga, menn. — 7. *hreðjar*, eistu.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

66 (**Grettir Ásmundarson**). Sæta saumskorða[1] kvað mik orðinn sverðlítinn.[2] Hælin hreðja kvista Hrist[3] hefir satt at mæla. Lágr Faxi[4] í læra skógar lautu[5] má allengi vaxa mér ungum. Bið, eyleygjar[6] Freyja.

1. *sæta saumskorða* er tvöföld kenning og merkir hvortveggja konu. — 2. *sverð*, sbr. næstu vísu á undan. — 3. *hreðja kvistr*, 'penis'; *hreðja kvista Hrist*, kona. — 4. *Faxi*, 'penis'. — 5. *læra skógar laut*, nárar. — 6. *eyleygr* tg. Boers *eyleygjar*, steinn; steina *Freyja*, kona.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

**67 (Grettir Ásmundarson).** Skjóma egg[1] nam oft skifta sköpum í rómu,[2] þá es ek varða böðharðum[3] berserkjum birkissjöt.[4] Hristarnaðrinn gall es Hjarrandi misti handa; báðir Björn ok Gunnarr létu brátt líf ok náðir.

1. *skjómi*, sverð. — 2. *róma*, bardagi. — 3. *böðharðr*, harðr í orrustu. — 4. *sjöt*, sæti; *birkissjöt*, hús. — 5. *Hristarnaðr*, (óvanaleg) sverðskenning?

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

**68 (Grettir Ásmundarson).** Ek kom enn einu sinni út á breiðri skútu í Dyrrhólmum; drengr skáði[1] lengi darra él.[2] Torfi, þarfr Vébrands arfi, bauð þá þýðum þegni þungra spjóta þrautir með stóru megni.

1. *ská*, auka, *skáði* = jók. — 2. *darr*, spjót; *darra él*, bardagi.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

**69 (Grettir Ásmundarson).** Þót margir menn stæðu at vápna sennu varð meiðir skeljeggs minnis veggja[1] svá skildr frá skaldi, at ára hlynr[2] varð endr[3] ófærr at hendi Grettis í benja hríðum[4]; hann gaf mér hest at lesti[5].

1. *skeljeggr*, með hvassa egg, hvass; getr verið að hér eigi að lesa *skeljeggr minnis veggja* meiðir. — 2. *ára hlynr*, maðr (Torfi, — 3. *endr*, forðum. — 4. *benja hríðir*, bardagi, — 5. *at lesti*, að síðustu (á ensku: at least). Vera má að *hann* í 8. vo. eigi að falla burt.

Þó þar væri við marga að berjast, skildum við Torfi svo, að hann varð ófær af vopnum mínum. Að síðustu gaf hann mér hest.

**70 (Grettir Ásmundarson).** Vitt frá ek at Þorfinnr Arnórsson þætti sterkr svaðils[1] verka þegn; oddbörr[2]

kvaðst skyldu varna mér aldrs. Einlyndum eyði orma setra[3] brást áræði; ek var eigi at beinni, þót hann fyndi mik einn úti.

1. *svaðilsverk*, hryðjuverk. — 2. *börr*, viðr; *oddbörr*, maðr. — 3. *ormasetr*, gull, eyðir gulls, maðr.

Það orð fór víða af Þorfinni Arnórssyni, að hann væri kappi mikill. Hann kvaðst skyldu vega mig. Hinn einlynda mann brast áræði; eg var ekki auðsóttari þótt hann fyndi mik einn úti.

71 (**Grettir Ásmundarson**). Ek gat gætt aldrs fyr geira njótum[1], því at ek treysta mætti viðr umsátum ýta[2], þat vas-a sjaldan. Nú hefr gild, afgömul steina rein[3] unnit gunnelda bör[4] með göldrum; ráðin grimm eru römm.

1. *geira njótr*, maðr. — 2. *ýtar*, menn. — 3. *rein*, jarðarspilda; *steinn*, tala eða glertala (sbr. s t e i n s ö r v i); *steina rein*, kona. — 4. *gunnelda börr*, maðr (Grettir).

Eg gat gætt þess að lífi mínu væri engin hætta búin af mönnum, því að eg treysti afli mínu, þó setið væri um mig. Það var eigi sjaldan. Nú hefir digr, afgömul kerling unnið mig með göldrum; römm eru heiftarráðin.

72 (**Þorbjörn öngull**). Ek flutta ómett[1] höfuð Grettis ór eyju; nauðuleg nála Nanna[2] grætr þann hárrauðan. Gjálfrs fagrlogs Fríði[3], hér máttu líta griðbits[4] höfuð á gólfi; þat mun alt fúna nema saltit.

1. *ómett*, gráðugt; getr verið að eigi að lesa *ólétt*. — 2. *nála Nanna*, kona; í hdr. stendr *nála Nauma;* hér mætti ef til vill líka lesa *Nunna* og verða þá skothendingar í vísuorðinu eins og vera á (sbr. s a u m a n u n n a). — 3. *Fríði* er ef til vill ekki rétt, enn gæti verið nf. et. fyrir *Fríðr*, eins og h e i ð i fyrir h e i ð r.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

73 (**Ásdís at Bjargi**). Sýrgarpar[1] mundu-t[2] síðr hlaupa á sjó enn sauðir fyrir dýri[3],— nýtt skaup[4] es komit at njörðum[5] norðr — ef (þeir) stæði Gretti ósjúkan stála Frey[6] í eyju; ek hefi kveðit[7] létt lof[8] um lýði.

1. *sýrgarpar* t. d. f. *sýrgarpr* (af s ý r, gylta og g a r p r), gyltukappar, óvirðingarorð. — 2. *mundu-t* = mundu eigi. — 3. *dýr*, refr, tófa. — 4. *skaup*, skop, skömm. — 5. *nirðir*, menn, hálfkenning. — 6. *stála Freyr*, maðr, Grettir. — 7. tg. f. *verit*. — 8. *lofs* tg. fyrir *lof*, lítið lof.

Svínahirðarnir mundu ekki síðr hlaupa á sjó enn sauðir undan tófu — ný svívirðing hefir hent menn fyrir norðan — ef þeir hefðu hitt Gretti ósjúkan í eynni; ek hefi kveðið lítið lof um þessa menn.

74 (**Þorsteinn drómundr**). Hringa Grund[1] átta eggþings boðar[2] máttu eigi koma saxi ór hendi geðrakks[3] Grettis áðr hvardyggvir[4] herðendr fetilsgerðar[5] hjoggu axlarfót[6] af hugrakkum unnblakksýti[7].

1. *hringa Grund*, kona. — 2. *eggþingsboðar*, menn. — 3. *geðrakkr*, hugrakkr. — 4. *hvardyggr*, hvarvetna duglegr. — 5. *fetill*, sverðfetill eða *skjaldarfetill*, *fetilgerð* hið sama; *herðendr fetilsgerðar*, menn. — 6. *axlarfótr*, hönd. — 7. *unnblakkr*, skip; *unn-blakks ýtir*, maðr.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

## Nöfn.

Talan merkir kapitula.

## Misprentanir og leiðrèttingar.

*Bls. 37*[25]: lögsögn *á að vera* lögskilum. — *Bls. 41*[5]: Reyðarfell *á ef til vill að vera* Reiðarfell, *sbr. líka bls. 44, vísuna.* — *Bls. 70*[8]: Gaulkum *á að vera* Görtum. — *Bls. 83*[17]: freistað *á að vera* freistat. — *Bls. 83*[27]: Þorgils *á að vera* Þorgeirr. — *Bls. 90*[6]: móalóttan *á að vera* móálóttan. — *Bls. 89 er vísutalið* rangt, *á að vera* 36. — *Bls. 100*[7]: bláeygr *á að vera* gráeygr. — *Bls. 118*[1]: hefir *á að vera* hefr. — *Bls. 141*[11]: næstu *á að vera* næstum. — *Bls. 174 í 48. vísu* vigfús *á að vera* vigfúss. — *Bls. 184*[16]: Þorgrímr ok *falli burt.* — *Bls. 185*[7]: Þórhallssonar *á að vera* Þórhaddssonar. — *Bls. 186 í 50 vísu:* Hægt *á að vera* hæg. — *Bls. 214* [19-20]: Þórðarson *á að vera* Þorgeirsson.

*Á eftir vísutalinu 37 hefir það ruglazt svo, að það er einu hærra enn vera á.*

*Á aðrar leiðréttingar má benda í vísnaskýringunum.*

# ÞÓRÐAR SAGA HRÆÐU.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1900.

## FORMÁLI.

Þórðar sögu hræðu hefir Halldór Kr. Friðriksson gefið út í Kaupmannahöfn 1848 í sögum þeim, sem fornritafélag Norðrlanda gaf út um þær mundir (Nordiske Oldskrifter VI). Áðr hafði sagan verið gefin út í sögubók þeirri, sem prentuð var á Hólum 1756, og heitir: „Nokkrer margfrooder söguþætter Islendinga“.

Útgáfa Halldórs Kr. Friðrikssonar er gerð eftir skinnbókum, en þær eru allar ungar, frá 15. öld og ein frá 17. öld. Hann hefir líka haft pappírshandrit til samanburðar.

Í þessari útgáfu er eingöngu fylgt útg. H. Kr. Friðrikssonar, nema að því leyti, að framan við söguna er prentað upphaf sögunnar eins og það er í broti af sögunni í Vatnshyrnu. Þetta brot hefir dr. Guðbrandr Vigfússon gefið út 1860, aftan við Bárðarsögu Snæfellsáss (Nordiske Oldskrifter XXVII), og þar er einnig prentað niðrlag sögunnar eftir sama broti, enn það niðrlag er hér prentað í viðbæti aftan við söguna. Sögubrot þessi úr Vatnshyrnu eru svo algerlega ólík þeirri Þórðar sögu, sem er í heilu lagi, að ekki er hægt að steypa þeim saman við hana, enn þá verðr heldr ekki hjá því komizt að gefa þau líka út.

Sagan er í prentuðu útgáfunum kölluð Þórðar saga hreðu, og nafnið er skrifað svo í mörgum handritum, enn í sumum handritum er það þó ritað hræða, og svo mun orðið hafa verið fram borið fram á þessa öld, sem sjá má

á ýmsum vísum, þar sem hræða er rímað saman við önnur orð. Auk þess má nokkurn veginn sanna það, að orðið hræða sé sama orð og hrœði, sem kemr fyrir í Elucidarius og merkir hræring eða óstöðugleik; hrœða er því = hrœra. Framburðrinn á orðinu hrœða, sem er öðruvís enn á orðinu hræða, gat líka breyzt í hreða.

Dr. Guðbrandr Vigfússon segir, að svo mikið verði sýnt, að Þórðr hræða hafi aldrei lifað á Íslandi. Hann ræðr það líklega af brotinu úr Þórðar sögu í Vatnshyrnu, en á það er ekki að treysta, því það er auðsjáanlega ekki fornt.

Enn Jón prófastr Jónsson að Stafafelli hefir í ritgerð í Tímariti Bókmentafélagsins XIX, 1898, fært góðar ástæður fyrir því, að Þórðar saga komi vel heim við tímatal, og að ættirnar í niðrlagi hennar muni styðjast við söguleg rök, en þær nefna allmörg nöfn, sem ekki eru nefnd annarsstaðar.

Frásagnirnar í sögunni eru auðvitað ekki áreiðanlegar. Hún er eflaust færð mjög seint í letur, enda getr hafa lifað lengi í munnmælum, því fremr sem fornsmíðar þær, sem eignaðar hafa verið Þórði hræðu, hafa haldið munnmælunum á lofti.

Þannig eru munnmæli um „leiði“ Þórðar hræðu á Miklabæ í Óslandshlíð, sem sagan getr þó ekki um. Í þetta leiði var grafið 1723 eða 1724, og segir Páll Vídalín, að það hafi reynzt forndys, en litlar menjar fundust þar.

Vísurnar í Þórðar sögu eru fremr óvandaðar og þar að auki eflaust aflagaðar. Hefir verið reynt að lagfæra þær nokkuð í þessari útgáfu.

Tímatali er hér slept, en viðburðir þeir sem sagan segir frá ættu að hafa gerzt eftir miðja tíundu öld.

# Upphaf Þórðar sögu

(eftir Vatnshyrnu).

---

Hrólfr í Bergi Upplendinga konungr var faðir Sölga konungs, föður Böðvars konungs, (föður) Kauns, föður Þóris konungs svíra, föður Ónars konungs, (föður) Arnar hyrnu; hans synir váru þeir Þorleifr hvalaskúfr, faðir Böðvars snæþrimu, föður Þorleifs miðlungs; annarr Áslákr bifru-kári, faðir Ketils hörða-kára; hann var ágætr maðr, ok réð fyrir Upplöndum; hann lagði undir sik þrjá konunga af sinni hreysti ok harðfengi, ok eignaðist þeira ríki. Hann átti mörg börn, ok er frá honum kominn hinn gildasti ættbogi ok mart stórmenni. Þessi váru börn Hörðakára: Þorleifr hinn spaki, Ögmundr, Ölmóðr enn gamli, Þórðr hræða, Þóra móðir Úlfljóts, er lög hafði til Íslands. Ögmundr var faðir Þórólfs skjálgs, föður Erlings á Sóla. Ölmóðr enn gamli var faðir Áskels, föður Asláks fitjaskalla, föður Sveins bryggjufóts, föður Bergþórs bukks, föður Sveins. Úlfljótr son Þóru Hörðakáradóttur hafði út lög til Íslands at ráði

Þorleifs ens spaka móðurbróður síns, þau er síðan váru kölluð Úlfljótslög. Enn er hann kom út, var alþingi sett, ok höfðu allir menn síðan ein lög hér á landi. Enn lög þau váru sett flest at því sem þá váru Gulaþingslög, og eftir ráði Þorleifs ens spaka hvar við skyldi leggja eða af taka. Þat var upphaf laga þeira, at menn skyldi eigi sigla at landinu með gínandi höfðum eða gapandi trjónum, svo að landvættir fældist við. Enn þá er landinu var skift í fjórðunga, skyldu vera þrjú þing í hverjum fjórðungi, enn þrjú höfuðhof í hverju þingi. Þar váru menn vandaðir til (at) varðveita hofin at hyggindi ok réttlæti. Þeir skyldu dómnefnur eiga á þingum ok stýra sakferli; þeir váru kallaðir hofgoðar. Hverr maðr skyldi gefa toll til hofs, svá sem nú er kirkjutíund. Baugr tvíeyringr eða meiri skyldi liggja á stalli í höfuðhofi hverju; þann baug skyldi hofgoði hafa á hendi til allra mannfunda ok rjóða hann þar í roðru blótnauts þess er hann blótaði. Hann skyldi vinna eið at baugi, ok nefna vátta í þat vætti, at hann ynni lögeið at baugi: — „hjálpi mér svo Freyr ok Njörðr ok Áss enn almátki, sem ek skal svá sök sækja eða verja, eða vætti bera, eða kviðu kveða, eða dóm dæma, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, sem ek veit réttast ok sannast ok helzt at lögum, þau er undir mig koma“. Svá sagði vitr maðr Þormóðr, er þá var allsherjar-

goði, at með þessum orðum ok þingmörkum helguðu langfeðgar hans alþingi alla æfi. Gunnarr hét son laga-Úlfljóts; hann átti Þóru, dóttur Helga ens magra; þeira son var Ketill í Djúpadal.

2. Þórðr hræða var fyrst kallaðr son Ketils hörða-kára; hann var ágætr maðr á Upplöndum; hans son var Klyppr hersir; annarr son hans var Steingrímr, þriði Eyjólfr; Sigríðr hét dóttir hans. Klyppr hersir var enn ágætasti maðr af örvi sinni og atgervi, eftir sem foreldri hans var til; hann átti Ólofu Ásbjarnardóttur; þeira dóttir hét Guðrún, kvenna vænst ok vitrust ok skörungr enn mesti. Þórðr hræða kvángaðist í elli í annan tíma eftir er hin fyrri kona hans var dauð. Hann fekk þá Helgu Vémundardóttur jarðlokars, Þórólfssonar váganefs, Hrærekssonar slöngvanbauga, Haraldssonar hilditannar Danakonungs. Þá færði Þórðr bygð sína í ey þá er Hísing hét; hann var þá bæði gamall og sköllóttr; var þá skift um viðrnefni hans, ok var hann þá kallaðr Þórðr Hísingarskalli.

3. Bárekr er maðr nefndr; hann réð fyrir eyjum þeim, er Brenneyjar heita; hann var berserkr, svá menn kölluðu hann eigi einhama; fjölkunnugr var hann, ok at flestu illa fallinn; hann hafði hár bæði stórt ok svart; því var hann Brenneyjarfaxi kallaðr. Bárekr gerði ferð sína til Hísingar ok bað Sigríðar dóttur Þórð-

ar, en hon vildi eigi gera at því; við þat reiddist Bárekr, ok kveðst því skyl u þann drepa er hennar bæði. Við þat reiddi t Þórðr hræða ok skoraði á hólm Báreki innan þriggja nátta; var Þórðr áttræðr at aldri. Hel a kona hans var kviðug at barni. Þórðr var vo búinn, er hann á hólminn gekk: hann haf hjálm á höfði, enn sverð í hendi; refil hafði ha vafit um enn vinstra armlegg sér; ekki hafði hann hlífar fleiri, enn Bárekr hafði hjálm á hö i, ok brynju, enn sverð í hendi, skjöld á hlið; hann átti fyrri at höggva. Enn er hann hjó til órðar, brá hann við sverðinu hendinni, ok ba svá af sér höggit, enn hjó annarri hendi til Bá eks ok stefndi á höfuðit, enn Bárekr bar upp i rir skjöldinn. Þórðr lét skjótt síga sverðit ok slæmdi til niðri, ok undan honum fótinn þar kálfinn var mestr. Fell Bárekr þá ok mæ i: „Nú munu vit skilja, því ek em sárr vorðin". Leysti Bárekr sik þá af hólmi sem lög stó u til, ok helt heim síðan. Enn er Þórðr kom hei, sá menn, at hann var sár á vinstri hendi o k eigi mjök. Þat sár greri illa svá at blást hljóp ok illendi í, ok þat varð honum at bana því at eitr hafði verit í sverðseggjum Báreks. Síðan fæddi Helga sveinbarn; þat var vatni ausit ok nafn gefit, ok skyldi heita Þórðr eftir feðr sínum. Þat var merki á sveininum, at hann hafði ör á vinstra armlegg, þar sem faðir hans

hafði særðr verit; tók hann þá þegar auknefni föður síns, þat er hann hafði fyrri, ok var kallaðr Þórðr hræða. Móðir hans andaðist af sængrför, enn Þórðr óx þar upp í Hísing þar til er hann var tólf vetra; var hann þá hverjum manni stærri ok sterkari, vænni ok víglegri, ok vel at íþróttum búinn. Allir váru þeir bræðr hans miklir menn ok sterkir, vænir ok stórmannlegir sem þeir áttu kyn til. Sigríðr systir þeira var kvenna vænst ok högust þeira er þar uxu upp henni samtíða; þau váru öll fulltíða menn þegar Þórðr var tólf vetra. Nú býr Þórðr ferð sína ór Hísing ok vill hitta Bárek föðurbana sinn. Þeir vóru tólf á skipi jafnaldrar hans, ok kunni engi árarlag. Enn er þeir kómu skamt fram með landi, sá þeir skip stórt sigla í móti sér; þar var þá kominn Bárekr, ok ætlaði að nema burt Sigríði. Hann spurði hverir á bátinum væri. Þórðr sagði til sín, ok spurði Bárek at erendum, enn hann sagði fyriræltan sína. Þórðr svarar: „Fyrr vil ek skora þér á hólm ok hefna svá föður míns, ef þess verðr auðit, enn at þú hertakir systur mína“. Bárekr kvað þat eigi barnafæri. Þó varð svá at vera sem Þórðr vildi. Þórðr bar af sér hit fyrsta högg Báreks með skildi, enn hjó undan Báreki fótinn fyrir ofan kné þann er heill var, enn í öðru höggi hjó hann höfuðit af Báreki.

Fór Þórðr heim síðan í Hísing, ok þótti hann mikit hafa vaxit af verki þessu.

5. Í þann tíð réð fyrir Noregi Eiríkr konungr blóðöx; hann átti Gunnhildi konungamóður; þeira synir váru þeir Haraldr gráfeldr, Gamli, Guthormr, Guðröðr, Sigurðr slefa, Ragnfröðr, Hrærekr, Eyvindr ok Tosti. Ok er Þórðr vóx upp, lysti hann til Gamla konungs hirðar Gunnhildarsonar, er allra manna var vinsælastr í Noregi, ok réðst til fylgdar við konung. Litlu síðar varð höfðingjaskifti í Noregi; kom í land Hákon Aðalsteinsfóstri, enn Eiríkr konungr ok Gunnhildr urðu útrekin með sonum sínum ok landflótta. Varð Eiríkr konungr at Norðymbralandi. Hann tók skírn á Englandi ok fell í víking. Enn þegar synir hans höfðu þroska til, lögðust þeir í hernað, ok váru enir mestu stríðsmenn.

6. Dvaldi Þórðr hræða nú með Gamla konungi; hann var þá tólf vetra sem fyrr er sagt, ok virðist konungi hann afbragðsmaðr um alt þat er hann skyldi reyna. Hann var með honum þrjá vetr; gekk hann jafan í mannhættu fyrir konungi í hverjum háska, þegar konungr var í bardögum, ok var enn röskvasti í öllum mannraunum, bæði at hug ok hjartaprýði; fekk hann því mikla virðing ok metorð. Var hann af slíku víðfrægr ok dvaldist þar vel lengi í góðu yfirlæti. Ok er hann hafði verit þrjá vetr með

Gamla konungi, gekk hann fyrir konung ok beiddi hann orlofs at vitja frænda sinna ok fara til Upplanda. Gamli konungr svarar: „Leyfa skal þér, Þórðr, at fara þangat sem þú vilt, enn ósýnt þykki mér um fundi okkra; enn vel hefir þú með oss verit. Nú skulu vit eigi skildir at vináttu, þó vit skiljum at samvistum. Hér er eitt sax, er ek vil gefa þér; vilda ek at þú lógaðir eigi, nema þú eigir lífi þínu að forða „— ok segir at gæfa hefir fylgt saxinu. Þórðr segir: „Þykki þér þat sýnna, fóstri minn", at þat muni þurfa. „Eigi þykkir mér þat ólíklegt", segir Gamli, „því at þú ert eigi ávalt jafnforsjáll ok fyrirleitinn um þinn hag ef þér býðr við horfa". Ok skildu þeir Gamli með hinni mestu vináttu ok fór Þórðr til Upplanda ok fundust þeir Gamli aldri síðan. Litlu síðar fell Gamli konungr sem segir í æfi Noregskonunga, ok gerði Haraldr gráfeldr með bræðrum sínum enn mesta ófrið í Noregi. Enn ena síðustu orrustu áttu þeir á Hörðalandi í Storð í Fitjum, ok fekk Hákon konungr sigr ok banasár. Hann andaðist við Hákonarhellu; þar hafði hann ok fæddr verit, ok er hann heygðr á Sæheimi. Eiríkssynir lögðu land undir sik, ok hétu þeir öllum mönnum lögum, þeim sem Hákon konungr hafði sett í landinu. Þeir gáfu ok höfðingjum nafnbætr, sem áðr höfðu haft feðr þeira ok svá ríki. Enn er þeir váru seztir í ríki ok

festir í landi, þá þótti þeim ofmikit vald hafa Sigurðr jarl í Þrándheimi; þeir kómu norðr til hans um nótt, tóku hús á honum ok brendu hann inni. Þeir drápu ok Guðröð konung ok Tryggva föður Óláfs konungs, ok marga aðra ágæta menn tóku þeir af lífi. Á þeira dögum var í Noregi hallæri mikit bæði á sjó ok landi, svá margir göfgir menn þoldu eigi vanrétti ok rangendi, ok drápu bændr ríkismenn

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .





# Þórðar saga hræðu.

Þórðr hét maðr, son Hörða-Kára, mikill at virðingu. Hann var höfðingi yfir þeim heruðum, er honum váru nálæg. Hann var hersír at nafnbót, enn jörlum var hann framar at mörgum hlutum. Hann hafði fengit göfugt kvánfang. Hann átti við húsfreyju sinni þrjá sonu ok eina dóttur; hét hinn elzti Steingrímr, annarr Klyppr, þriði Eyjólfr, enn dóttir Sigríðr. Öll váru börn þeira mannvænleg. Klyppr var þó fyrir þeim bræðrum. Allir váru þeir miklir menn ok furðulega sterkir, vænir ok stórmannlegir, sem þeir áttu kyn til. Sigríðr systir þeira var allra kvenna vænst, ok ofláti mikill ok skapstór. Hon var allra kvenna högust, þeira er þar uxu upp henni samtíða. Ok sem þeir bræðr váru nær fulltíða menn, tók Þórðr faðir þeira sótt ok andaðist, ok var útferð hans vegleg ger eftir fornum sið. Ok er erfit

var drukkit, fæddi húsfreyja Þórðar sveinbarn, bæði mikit ok frítt. Því var nafn gefit, ok vildi húsfreyja, at Þórðr héti eftir föður sínum; kveðst þat hyggja, at verða myndi mikilmenni, ef í ætt brygði. Ok er Þórðr óx upp, var hann mikill ok sterkr, vænn ok stórmannlegr, harðgerr, óvæginn við alla þá, sem honum var lítt við, enn vinsæll við alþýðu; hann var mildr af fé ok blíðr viðmælis, vinfastr; hann var gleðimaðr mikill, ok manna fimastr við alla leika; syndr var hann hverjum manni betr ok skáld gott. Í þann tíma réðu Gunnhildarsynir ríki í Noregi, er þetta var tíðenda. Ok er Þórðr óx upp, fýsti hann til hirðar Gamla konungs Gunnhildarsonar, er allra manna var vinsælastr í Noregi af öllum konungum, þegar leið Hákon Aðalsteinsfóstra. Þá var Þórðr tólf vetra, er hann réðst til hirðar Gamla konungs, og virðist konunginum hann afbragðsmaðr um alt þat, sem hann skyldi reyna, ok var með honum þrjá vetr; gekk hann jafnan fyrir konunginum í hverjum háska eða mannhættu, þegar konungrinn var í bardögum, ok fekk hann því mikla virðing ok metnað; var hann af slíku víðfrægr. Ok er Þórðr hafði verit þrjá vetr með Gamla konungi, sagði hann konungi, at hann fýstist at vitja eigna sinna. Konungr mælti: „Góða fylgd hefir þú oss veitta, ok mikils háttar maðr mantu verða“. Kon-

ungr spretti af sér saxi, er hann var vanr at bera daglega, og mælti til Þórðar: „Hér er eitt sax, er ek vil gefa þér, ok ek hygg, at gifta muni fylgja; þar með skal fylgja vinátta mín“. Þórðr þakkaði honum þenna sóma ok allan annan, er hann gerði til hans. Konungr mælti: „Þess bið ek, at þú gefir engum manni eða lógir, nema þú eigir höfuð þitt at leysa; ok er eigi ólíklegt, at þess munir þú ok við þurfa“. Þá svarar Þórðr: „Ek ætla mér, herra, ekki álengdar frá yðr at vera, meðan ek á kost yðr at fylgja“. Þá segir konungr: „Þat man eigi vera; því at vit munum aldri sjást, síðan vit skiljum nú“. Þórðr varð fár við orð konungs ok svaraði engu, ok tók síðan orlof af konunginum, ok fór heim til búa sinna, ok urðu frændr hans honum fegnir. Hafði Klyppr bróðir hans tekit undir sik allar eignir þeira bræðra, ok gerzt höfðingi yfir þeim heruðum, sem faðir þeira var áðr yfir skipaðr; var hann ok hersir at nafnbót. Enn litlum tíma síðar enn Þórðr fór í braut frá Gamla konungi, börðust þeir Hákon konungr hinn góði ok Gamli konungr; ok í þeiri orrustu fell Gamli konungr, sem segir í sögum Noregskonunga.

2. Sigurðr konungr slefa, Gunnhildarson, var óeirðarmaðr mikill um kvennafar. Hann lagði í rekkju hjá sér Álöfu, dóttur Skeggja á Yrjum. Hon var húsfreyja Klypps hersis Þórðarsonar.

Þórðr eggjar Klypp bróður sinn til hefnda oftlega. Ok einn tíma kom Þórðr at máli við bróður sinn ok mælti: „Hvernin er þetta? Hvárt viltu ekki reka þá svívirðing af höndum þér, sem á liggr við Sigurð konung, ok verða svá at undri, ok hafa hvers manns ámæli, ok þykkja aldri mega heita slíkr maðr sem þínir fyrri frændr, ef þú skalt sitja Sigurði konungi þvílíka vanvirðing, at hann leggi í rekkju hjá sér þína eiginkonu, svá at þú leitar eigi til hefnda? Þó at við nökkurn liðsmun sé at eiga, þá er betra at láta líf sitt við sæmd, ef þess verðr auðit, heldr enn þola atgerðalaust þvílíka vanvirðing. Vil ek bjóðast til ferðar með þér, ok vér allir bræðr, heldr enn þola lengr, svá vér leitum eigi til nökkurra hefnda með þér, hversu sem takast vill“. Þá svarar Klyppr: „Satt segir þú þat, bróðir, at nóg væri nauðsyn at reka þessarrar vanvirðingar, ef færi gæfi á, ok fullfúss em ek til at hefna honum minnar vanvirðingar“. Eftir viðrtal þeira bræðra gera þeir allir bræðr heiman ferð sína með mikinn flokk manna og stefna á Upplönd, þangat sem þeir spurðu at Sigurðr konungr var á veizlu. Ok er þeir kómu á þann bæ, sem konungr var fyrir ok sat yfir drykkjuborðum, skipa þeir bræðr sínum mönnum til inngöngu; bað Þórðr, at sá skyldi fyrstr út ganga, er síðast gekk inn; skal Klyppr ganga

fyrstr inn, þar næst Þórðr, þá Steingrímr, þá Eyjólfr, síðan hverr sem skipat var. Allir höfðu þeir alvæpni, með hjálmum ok skjöldum ok brugðnum sverðum. Ok er Klyppr hersir kom fyrir Sigurð konung, reiðir hann upp sverðit ok höggr konung í höfuðit ok klauf hann í herðar niðr; hné hann dauðr á borðit fram. Eftir þetta snúa þeir bræðr utar eftir höllinni; ok í því heyrði Þórðr brest á bak sér aftr, ok sér hann, at Klyppr bróðir hans var höggvinn banahögg. Þat gerði sá maðr, er hét Hróaldr Ögmundarson, Hörða-Kárasonar; hann var náskyldr þeim Þórðarsonum. Hann stóð fyrir konungsborðinu, er þeir kómu inn, ok því vöruðust þeir hann ekki. Þann mann vá hann annan, er hét Ögmundr ok var Valþjófsson. Ok er Þórðr sá fall bróður síns, hjó hann til hans Hróalds, ok sneið hann í sundr fyrir ofan mjaðmirnar. Síðan hlupu menn upp um alla stofuna ok brugðu vápnum, ok veittu þeim bræðrum mikla atsókn; enn þeir vörðust vel ok hreystimannlega; neytir Þórðr þá vel saxins, er Gamli konungr hafði gefit honum, ok varð margs manns bani, áðr enn hann komst út. Fór þar sem jafnan, ef menn missa skjótlega sinna höfðingja, at flestum verðr bilt eftir at sækja sínum óvinum; ok fór þar ok svá, ok fóru þeir bræðr heim til búa sinna. Þessi tíðendi fréttir Haraldr konungr skjótlega: fall Sigurðar kon-

ungs bróður síns, ok ætlar at gera menn til þeira bræðra ok láta drepa þá. Þá var konungrinn norðr í landi, ok því varð seinna gert til þeira enn ella myndi; stefndi hann þing ok lét gera þá bræðr útlaga fyrir endilangan Noreg, enn kastaði sinni eign á þeira eignir.

3. Nú er frá því að segja, at þeir bræðr kómu heim ok sögðu fall Sigurðar konungs ok Klypps bróður síns. Þá kvað Þórðr vísu:

(1) Ek segi víg, þau er vágu
virðendr þrimugirðis.
Klyppr rauð brand í blóði
burs ilda Gunnhildar.
Þar fell hjalms í höllu
hlaut Klyppr bana af gauti.
Þar vá'k þolla fjóra
þremjalax með saxi.

Þóttust þeir bræðr nú vita, at þeir myndi eigi mega haldast við innanlands fyrir ríki Haralds konungs og Gunnhildar. Frændr þeira ok vinir fýstu þá at selja jarðir sínar til lausafjár, ok lögðu þat til, at Þórðr skyldi leita til Íslands; sögðu þangat mart stórmenni komit, ok hafa landflótta orðit fyrir Noregskonungum. Þá svarar Þórðr: „Ekki hafða ek ætlat at flýja óðul mín; enn með því at margir göfgir menn hafa sér þetta látit nægja, at byggja Ísland, þá má vera, at slíkt nökkut liggi fyrir". Síðan bjóst Þórðr til Íslandsferðar ok með honum bræðr hans, Steingrímr ok Eyjólfr, ok Sigríðr systir hans. Þau höfðu of lausafjár. Hann

hafði nítján menn á skipi með sér. Síðan lét hann í haf. Þat var öndvert sumar. Þeir váru mánuð í hafi ok kómu við Vestmannaeyjar, ok sigldu svá vestr fyrir landit, ok svá norðr fyrir Strandir, ok lögðu þar inn á flóann ok nær hinu nyrðra landinu, ok sigldu inn í einn fjörð, ok tóku þar land nær vetrnóttum. Skjótt kómu menn til þeira. Þeir spurðu, hvat fjörðr sá héti, er þeir váru at komnir. Þeim var sagt, at þeir váru komnir í Miðfjörð. Þeir lendu í Miðfjarðarósi. Þá var Miðfjörðr albygðr. Skeggi bjó at Reykjum, er kallaðr var Miðfjarðar-Skeggi. Hann var son skinna-Bjarnar. Því var skinna-Björn kallaðr, at hann var vanr at sigla í Austrveg kaupferð, ok færa þaðan gráskinn, bjór ok safala. Skeggi var garpr mikill ok einvígismaðr. Hann var lengi í víkingu. Ok eitt hvert sinn kom hann við Danmörk ok fór til Hleiðrar, þangat sem haugr Hrólfs konungs kraka var, ok braut hauginn ok tók á braut sverðit Hrólfs konungs, Sköfnung, er bezt sverð hefir komit til Íslands, ok öxina, er Hjalti hafði átt hinn hugprúði; enn hann náði eigi Laufa af Böðvari bjarka; því at hann fekk hvergi sveigt hans armleggi. Síðan bar Skeggi Sköfnung. Miðfjarðar-Skeggi var höfðingi mikill ok auðigr. Hann var frændstórr. Allir Miðfirðingar heldu hann fyrir höfðingja. Hafði Björn faðir hans

numit allan Miðfjörð. Var hann goðorðsmaðr yfir Miðfirði ok víða annarsstaðar. Eyjólfr hét góðr bóndi. Hann bjó á Ósi ok var ríkr maðr. Annarr bóndi er nefndr Þorkell. Hann bjó á þeim bæ, er á Söndum heitir, fyrir vestan fjörðinn, gegnt Ósi. Hann var lítilmenni, enn auðigr at penningum, ok vinr Skeggja at Reykjum. Þorkell hafði boðit Skeggja barnfóstr, ok var Eiðr sonr Skeggja at fóstri á Söndum í þann tíma, er Þórðr kom í Miðfjörð. Eyjólfr bóndi frá Ósi kom fyrstr manna til kaupmanna. Hann hafði tal við kaupmenn. Þórðr spurði, því bændr myndi svá seinir til skips. Eyjólfr kvað þat vana, at Skeggi kæmi jafnan fyrstr til skips, ok tæki þat af varningi, sem honum líkaði; svá tæki hann ok þat af kaupmönnum til sín, sem hann vildi, til vistar. Þórðr kvað mikit um ríkilæti hans — „ok er mér hitt sagt hér landsmanna vani, at finna kaupmenn af hafi komna ok frétta tíðenda“. Eyjólfr svarar: „Föru vit til fundar við Skeggja, ok man hann vel fagna þvílíkum manni sem þú ert“. Þórðr segir: „Heima man ek vera við skip mitt, ok bíða svá þess er at höndum kemr“. Þá mælti Eyjólfr: „Ek mun fara at finna Skeggja ok segja honum skipkvámuna“. Þórðr segir: „Mantu eigi gera sem þér líkar?“ Síðan skildu þeir; fór Eyjólfr til Reykja at finna Skeggja, ok sagði honum skipkvámuna ok svá

hverr stýrimaðr var. Skeggi kveðst gerla þekkja Þórð ok hans foreldra; kvað hann gegnan mann — „ok hefir ekki komit hingat til lands göfgari maðr né fremri“ — ok lét vel yfir honum. Eyjólfr bað Skeggja ríða til skips ok kjósa þat sem hann vildi af kaupmönnum heim til sín. Skeggi svarar: „Jafnan hefi ek raun af því, at þér unnið mér sæmdar af öllum hlutum, enn nú vil ek unna yðr einn tíma þeirar virðingar, at kjósa þat af kaupmönnum, sem þér vilið, því at engan vil ek til mín taka af þessum skipverjum. Enn þat ræð ek þér, at þú heitir því einu Þórði, at þú efnir vel, því at lítit man honum fyrir þykkja, at láta einnhvern til jarðar hníga, ef honum ríss við“. Síðan skildu þeir. Reið Eyjólfr til skips ok fann stýrimann ok sagði Þórði tal þeira Skeggja. Þórðr svarar: „Bezta ferr þér; enn sjá þykkjumst ek á slíku, at Skeggi vill ýfast við mér; þykkir mér ok meiri ván, at lítit tillæti veita ek honum“. Eyjólfr mælti: „Þat væri minn vili, at vér fyndim Skeggja“. Þórðr svarar: „Hvergi man ek fara; enn með því at Skeggi vill engan kaupmann til sín taka, at siti á aðra hönd honum í vetr, þá fæði hann strúg sinn á aðra hönd sér, meðan honum líkar“. Eyjólfr bauð Þórði til vetrvistar með sér heim til Óss, enn hann bað hann vista kaupmenn sína þar um fjörðinn. Þórðr þakkaði honum

boð sitt, enn kvaðst eigi vilja með honum vist hafa. Þórðr beiddist at Eyjólfr seldi honum á leigu landit um vetrinn, ok þat gerði Eyjólfr, enn hann fór bygðum á Torfustaði, því at hann átti þar annat bú, enn Þórðr tók við búi at Ósi. Síðan lét hann flytja heim farm allan, enn réð skipinu til hlunns. Með Þórði fóru heim bræðr hans ok systir ok allir skipverjar. Sitr Þórðr um kyrt þann vetr. Ekki lét Skeggi til sín taka; mælast þeir Þórðr ekki við, þótt þeir finnist. Eigi lætr Skeggi sem hann viti um kaup þeira Þórðar ok Eyjólfs eða breytni. Þórðr hafði fjölment ok var hinn mesti gleðimaðr, ok svá váru þeir allir bræðr. Þórðr varð skjótt vinsæll af heraðsmönnum. Heldr líkaði Skeggja þat lítt; þótti líklegt, at hann myndi vilja verða höfðingi yfir Miðfirði. Ok því öfundaði hann Þórð; því at hann var harðlyndr ok þoldi eigi at aðrir væri látnir jafnfram honum. Þórðr hafði leika um vetrinn, ok váru þeir bræðr at leikum ok Bæjarmenn, ok váru þeir engir at jafnbiði Þórði um allan fimleik ok afl. Þórðr var umsýslumaður mikill ok hinn mesti þjóðsmiðr. Um vetrinn reisti Þórðr ferju niðr við Miðfjarðarárós, ok var þar löngum um dagana; ætlaði hann at ferjan skyldi ganga til stranda at vári til fangs. Leið svá fram til jóla. Ok er kom at jólum, sendi Skeggi mann til Þorkels á Sanda, ok bauð

honum til jólaveizlu ok húsfreyju hans; bað hann ok at sveinninn Eiðr skyldi fara með þeim. Hann var þá ungr, ok þó nökkut á legg kominn. Síðan bjuggust þau heiman frá Söndum atfangadag fyrir jól, ok með þeim sveinninn Eiðr. Svá var veðri farit, at gerði á þey með regni, enn Miðfjarðará ófær, ok tók at leysa ána köflum hit efra, enn við fjörðinn var fært með skip. Ok er Þorkell setti fram skipit, kallaði Þórðr á hann ok mælti: „Ófær er áin, maðr!“ segir hann. Þorkell svarar: „Gættu smíðar þinnar, ek man ferðar minnar“. Réð Þorkell nú til árinnar; váru þau þrjú á skipinu. Ok er þau kómu á megin árinnar, leysti sem óðast ána ok fórst þeim seint; rak þau nú eftir ánni fyrir ísinum ok straumi; ok eigi létti fyrr enn hvelfdi skipinu; höfðu þau kaffarar ok helt við druknan. Enn með því at þeim var lengra lífs auðit, kom Þorkell þeim á kjöl; rak nú skipit til sjávar, ok gegnt því sem Þórðr var at smíðinni ok Steingrímr bróðir hans hjá honum. Þá kallaði Þorkell á hann Þórð til bjargar þeim. Þórðr segir: „Ek man gæta smíðar minnar, enn þú ferðar þinnar“. Steingrímr mælti: „Ger vel, bróðir minn, ok hjálpa mönnunum; því at nú liggr líf þeira við, ok sýn ment þína“. Þórðr kastar þá hinum yztum klæðum; síðan kastar hann sér til sunds ok legst út til skipsins, ok varð hann

at brjóta ísinn ok hrinda frá sér ýmsa vega. Ok er hann kom at bátnum, tók hann fyrst sveininn Eið ok lagði í millum herða sér, knýtti þar at utan einu snæri ok legst til lands með hann, ok bað Steingrím bróður sinn hjálpa við sveininum, svá honum ornaði, því at honum var kalt orðit. Síðan leitar hann út til skipsins ok tók konu Þorkels — ok var hon mjök dösuð — ok flutti hann hana til lands. Hit þriðja sinn legst hann til skipsins ok flytr Þorkel til lands, ok var hann at bana kominn af kulda. Steingrímr spurði: „Því fluttir þú sveininn fyrst?“ Þórðr segir: „Því flutta ek Eið fyrstan, at mér segir svá hugr um, at mér verði at þessum hinum unga manni mikit gagn, ok hann muni gefa mér líf; enn því flutta ek Þorkel síðast, at mér þótti hann mest mega við kuldanum; enda þótti mér at honum minstr skaði“. Siðan tók Þorkell klæðaskifti; enn hann hrestist ok kona hans. Eftir þat fara þau hjón til Reykja, enn Þórðr bauð Eiði heim með sér til Óss. Eiðr kveðst þat gjarna vilja þiggja, ok var þar langan tíma. Enn nú er at segja frá því, at Þorkell kemr til Reykja ok sagði sínar eigi sléttar. Skeggi kvað hann mikla óhamingjuför farit hafa — „enn látið son minn eftir hjá þeim manni, sem mestr ofsamaðr er“ — kveðst svá hugr um segja, at þar myndi koma, at mikit væri gef-

anda til, at Eiðr hefði þar aldri komit til Þórðar. Enn er jólin liðu, fór Þorkell heim, ok kom um leið til Óss, ok bað Eið með sér fara. Eiðr svarar: „Eigi man ek með þér fara; skaltu eigi oftar setja mér fjörráð“. „Eigi vilda ek þér heldr bana ráða enn sjálfum mér“, segir Þorkell. Fór Þorkell heim, ok er hann ór sögunni.

4. Eiðr var Þórði jafnan fylgjusamr; enda var Þórðr alltillátssamr við hann. Þórðr var löngum at ferjusmíðinni niðri við ósinn ok Eiðr hjá honum. Þat var einn dag, at Þórðr var at skipsmíðinni ok sveinninn Eiðr hjá honum. Þórðr hafði jafnan hjá sér saxit Gamlanaut, ok svá var enn. Eiðr tók upp saxit ok lék at. Þetta sér Þórðr ok mælti: „Lízt þér vel á saxit, fóstri minn?“ Hann svarar: „Allvel“, segir hann. Þórðr mælti: „Þá vil ek gefa þér saxit“. Eiðr mælti: „Aldri man ek geta launat þér jafngóðan grip, enn vináttu mína vil ek gefa þér, fóstri minn, ok man hon þykkja lítils verð“. Þórðr svarar: „Haf þú þökk fyrir, fóstri minn, ok mantu bæði launa oft ok stórum“. Síðan fóru þeir Þórðr heim, ok sýndi Eiðr saxit öllum heimamönnum ok þótti allvænt um. Litlum tíma síðar kom Eiðr til Reykja at finna föður sinn. Skeggi tók honum ekki blítt ok spurði: „Því þótti þér þat fóstr betra, at vera með Þórði, enn þat fóstr, er ek

fekk þér með Þorkeli?“ Eiðr svarar: „Allólíkt er þetta fóstr fyrir alls sakir; því at Þórðr er mikils háttar maðr, ok má af honum gott hljóta; enn Þorkell er lítilmenni ok heimskr; hann vildi bana mér fyrir sakir óvizku ok forsjáleysis; enn Þórðr gaf mér líf; ok hann hefir gefit mér hinn bezta grip“. Skeggi mælti: „Af umsjá Þorkels mundi þat, er þú fekt líf; mundi hann eigi heldr vilja þér bana enn sjálfum sér eða konu sinni. Enn sjá vil ek þann grip, er þú lætr svá mikillega yfir, hvárt mér þykkir svá mikils um vert“. Eiðr sýndi honum þá saxit. Skeggi brá saxinu, ok leizt allvel á ok mælti: „Auðsét er þat, at þenna grip hafa átt tígnir menn, ok er þetta allmikil gersemi, ok eigi trúi ek, at hann hafi þvílíkan grip, svá fágætan, þér gefit“. Þá svarar Eiðr: „Eigi þykki mér þá líklegt, at þú munir styrkja mik til launanna, ef þú vilt eigi trúa, at hann hafi gefit mér“. Skeggi mælti: „Gjarna vilda ek at þú hefðir þenna grip eigi þegit“. Eiðr svarar: „Eigi lízt okkr þetta einninn“. Eftir þetta ferr Eiðr heim til Óss, ok varð fátt af kveðjum með þeim feðgum í því sinni. Þórðr fagnaði vel fóstra sínum ok spurði eftir tali þeira feðga. Eiðr sagði alt sem farit hafði. Þórðr svarar: „Slíks var mér at ván; ok allmjök vill faðir þinn ýfast við mér. Ok svá segir mér hugr, sem fleira muni til vand-

ræða með okkr föður þínum ok hans frændum enn sjá megi fyrir, hvern enda eiga man, ok mantu jafnan með miklum vanda verða í milli at ganga". Eiðr svarar: „Gott væri, ef ek mætta nökkut gott at vinna í millum ykkar".

5. Ásbjörn hét maðr. Hann var son Þorsteins hvíta ok Sigríðar systur Miðfjarðar-Skeggja. Hann kom út hingat til Íslands þetta sumar í Blönduósi í Langadal. Ok er Skeggi frétti útkvámu frænda síns, reið hann til skips, ok fagnar vel Ásbirni frænda sínum, ok býðr honum heim með sér við svá marga menn sem hann vildi. Þetta boð þiggr Ásbjörn, ok réð skipi sínu til hlunns, ok fór síðan heim til Reykja við þriðja mann. Ásbjörn var manna mestr ok hinn fríðasti maðr ok vel látinn. Hann var rammr at afli, svá varla fanst hans jafningi fyrir afls sakir. Hann var gleðimaðr mikill. Hann gekk jafnan til laugar at skemta sér. Ok einn dag gengu þeir Skeggi til laugar eftir vanda, ok lágu við laugina ok töluðust við. Þenna dag gekk Sigríðr frá Ósi til laugar með léreft sín, ok bjóst í þann tíma heim. Hon gekk þar hjá sem þeir lágu. Ásbjörn var drambsmaðr mikill at klæðabúnaði. Þeir sáu hvar konan gekk. Hon var í rauðum kyrtli ok hafði blá yfirhöfn; var konan bæði fríð ok mikil ok at öllu allvaskleg. Ásbjörn reis upp við olnboga ok leit um öxl til

hennar. Hon nam staðar ok leit til hans ok gekk síðan heim. Þá spurði Ásbjörn, hvat konu þat væri — „þykki mér ván, at sjá kona myndi geta ástir af mér“. Skeggi svarar: „Hon heitir Sigríðr ok er dóttir Þórðar Hörða-Kárasonar; enn þat ræð ek þér, at þú skiftir þér þar engu af við hana“. Ásbjörn spurði, því þat skyldi vera. Skeggi svarar: „Þeir bræðr hennar eru fullir ofrkapps ok hinir mestu óeirðarmenn. Hyggr þú, at þeir muni þér hlífa, ef þeim ríss við, þar sem þeir drápu Sigurð konung slefu, son Eiríks konungs?“ Ásbjörn svarar: „Þat hafða ek ætlat, at vera sjálfráði fyrir hverjum manni hér í landi“. Skeggi segir: „Þat ferr sem reynist, hvárt þú ert einhlítr áðr þér skilið, ef þú leitar nökkut á þá, framar enn þeim líkar“. Eftir þat gengu þeir heim.

6. Nú er frá því at segja, at Sigríðr kom heim til Óss; gekk Þórðr bróðir hennar í móti henni. Hann mælti: „Því ertu svá litverp, systir? ok lízt mér sem hann hafi fengit þér litar, Ásbjörn veisugalti; enn mart man verða í leikum, áðr enn hann fær þín“. Svá fór fram um vetrinn, at alt var kyrt. Aldri gat Ásbjörn Sigríðar. Knattleikar váru í millum Reykja ok Óss á Miðfjarðarísi; því at snimma lagði fjörðinn. Þá var gott til knárra manna í Miðfirði. Þórðr var knástr at leikum ok

Ásbjörn frændi Skeggja. Ekki var Skeggi at leikum, því at hann var af hinu mesta æskuskeiði, enn þó sem hraustastr til vápns; sat hann hjá ok þótti allmikit gaman at. Aldri mæltust þeir Þórðr við ok heldr var þar fátt í milli. Þat var einn dag, at Þórðr var at leik ok Ásbjörn, ok skyldu þeir á leikast. Ok einn tíma feldi Þórðr hann Ásbjörn allmikit fall, svá bops kvað í skrokkinum á honum. „Ok fell nú veisugaltinn“, sagði Þórðr. Hann svarar fá um. Ok annat sinn, er þeir tókust til, þrífr Ásbjörn til Þórðar, svá at hann fell á kné. „Ok fór þar meyjarkinninn“, sagði Ásbjörn, „ok væri þér varla kvæmt í leik með röskum mönnum“. Þórðr segir: „Svá fremi veiztu þat, veisugalti, er vit reynum vápnaskifti, hvárr þá á upp til annars at sjá, er vit skiljum þann leik“. Ásbjörn kveðst þess albúinn þá þegar ok hljóp til vápna; gengu menn þá í millum þeirra ok váru þeir skildir. Líðr nú af vetrinn. Reið Ásbjörn til skips síns um várit ok bjó þat til hafs. Skeggi reið til skips með Ásbirni við marga menn, því at honum þótti einskis ills örvænt fyrir Þórði. Sitr Þórðr heima ok lætr eigi sem hann viti. Ásbjörn kemr at máli við Skeggja: „Svá er mál með vexti, frændi, at mér leika kvánföng í hug, ok vil ek ráða ráði mínu“. Skeggi segir: „Hvar er kona sú, er hugr þinn horfir

helzt á?“ Ásbjörn segir: „Ekki er því at leyna, at þat er Sigríðr, systir Þórðar at Ósi; hon er sú kvenna, at minn hugr stendr mest til at fá“. Skeggi svarar: „Ekki þykki mér þetta líklegt, at okkr muni þetta tjá; ok ófúss er ek til at flytja þetta mál við Þórð, at þeim óþokka, sem millum ykkar er áðr“. Ásbjörn kvað þat eina hafa í millum borit, at lítils var vert, ok kveðst eigi vilja hins bezta kvenkostar missa fyrir þat — „ef ek kann at fá“. Þar kom, at Skeggi hét at biðja konunnar fyrir hans hönd. „Þykki mér ráð“, segir Skeggi, „at ekki bregðir þú utanför þinni fyrir þetta“. Reið Skeggi heim, enn Ásbjörn fór utan þat sumar. Eigi miklu síðar enn Skeggi kom heim spurðist skipkváma í Hvítá í Borgarfirði. Ok er menn fréttu þat, fór fjöldi manns norðan ór sveitum til kaupa við kaupmenn, bæði ór Miðfirði ok annarsstaðar. Skeggi bjóst ok til skips at ríða með marga menn. Ok er Eiðr spurði, at faðir hans ætlaði til skips, mælti hann við Þórð: „Ætlar þú nökkut til skips, fóstri minn?“ Þórðr segir: „Því man ek síðr þurfa varning enn aðrir bændr? ok skal ek at vísu fara“. Eiðr mælti: „Ek vil ríða með þér ok heyra á mál manna, ok kynna mér svá kaupstefnu“. Þórðr segir: „Bæta man þat vára ferð, fóstri minn, at þú farir; segir mér svá hugr, at í þessarri ferð man ek þín mest þurfa, ef mínir

draumar vita nökkut". Eiðr mælti: „Hvat dreymdi þik, fóstri minn?" Þórðr segir: „Þat dreymdi mik, at ek þóttumst kominn til Hvítár í Borgarfirði ok eiga tal við útlenda menn, eigi sízt um kaup nökkur; ok í því kómu í búðina vargar margir, ok var mér mikill viðbjóðr við þeim; síðan réðu þeir á mik ok vildu drepa mik ok rifu af mér klæðin, enn ek brá sverðinu ok hjó ek í sundr einn varginn í miðju ok höfuðit af öðrum; síðan hlupu at mér vargarnir öllum megin, enn ek þóttumst verjast, ok varð ek mjök móðr, ok eigi þóttumst ek vita, hversu mér myndi vegna. Í því hljóp fram fyrir mik einn bjarnhúnn ok vildi verja mik, ok í því vaknaða ek. Nú þykki mér draumrinn tíðendavænlegr". Eiðr mælti: „Auðsét er þat, at þetta eru mannahugir illir til þín. Nú væri þat mitt ráð, at þú riðir jafnsnimma heiman ok faðir minn, þó at þit mælist ekki við". Þórðr mælti: „Gera má ek þat, fóstri minn, fyrir bæn þína". Nú bjóst Þórðr til ferðar ok Eiðr með honum. Ok er Þórðr bjóst, mælti Sigríðr systir hans: „Þat vil ek, bróðir minn, at þú kaupir mér skikkju mjök vandaða". Þórðr svarar: „Svá skal vera, systir; enn svá segir mér hugr, at skikkjan verði fullkeypt áðr lúki". Þeir Þórðr ok Eiðr riðu til skips jafnfram Skeggja; því at Eiðr bað Þórð

þess. Ok er þeir kómu til skips, tjölduðu þeir eina búð báðir.

7. Sá maðr kemr til sögunnar, er Jón hét. Hann bjó at Hvassafelli í Norðrárdal. Hann var vel fjáðr ok engi jafnaðarmaðr ok óvinsæll. Guðrún hét kona hans, ofláti mikill ok metnaðarfull. Bróðir hennar hét Auðólfr. Glúmr hét faðir þeira. Hann bjó at Skarðshömrum. Þeir ætluðu að ríða til skips í þann tíma er þeir Þórðr ok Skeggi váru við skip. Ok er þeir riðu heiman, mælti Guðrún við bónda sinn, at hann skyldi kaupa henni skikkju nökkura góða, því at hon var áburðarkona. Þessu heitr bóndi. Þeir ríða nú leið sína, þar til er þeir koma á Hvítárvöllu; þá var kaupstefna sem mest. Þeir Jón ok Auðólfr gengu um búðir. Þeir kómu í búð þess manns, er Þórir hinn auðgi hét, ok föluðu skikkju, ef til væri. Hann segir, kvað til vera skikkju — „ok man ykkr, bóndi, þykkja dýr“. Jón svarar: „Lát heyra, hvat gjalda skal“. Austmaðr mat skikkjuna. Jóni þótti of dýr. Auðólfr vildi kaupa láta, ok bauð at leggja til af sínu. Jón gekk frá. Ok er þeir kómu út, eggjaði Auðúlfr at kaupa skikkjuna — „ok hét ek því systur minni“. „Því skaltu eigi ráða?“ segir Jón, „ok göngum heim eftir verðinu“ — ok varð þetta dvöl nökkur. Þat er sagt, at þeir Þórðr ok Eiðr gengu um búðir ok föluðu

varning. Þeir kómu í búð Þóris ríka ok föluðu skikkjuna at Þóri. Þórir kveðst kenna Þórð ok hans foreldra — „ok vil ek eigi meta við þik; heldr vil ek, at þú þiggir skikkjuna“. Þórðr þakkaði honum — „ok vil ek þetta þiggja, ok láta hér liggja meðan ek geng eftir verðinu“. „Þat vilda ek“, segir Þórir, „at þú hefðir með þér“. „Engu man þat varða“, segir Þórðr, ok gengu þeir Eiðr at sækja verðit. Ok er Þórðr var í braut, koma þeir Jón ok Auðólfr inn í búðina ok báðu austmanninn þá láta til skikkjuna. Hann kvað þá selda skikkjuna — „því at þú vildir eigi þvílíkt við gefa, sem ek mat“. Jón kveðst þá hafa skyldu. Ok í því kómu þeir Þórðr ok Eiðr í búðina með skikkjuverðit. Þórðr greip til skikkjunnar. Auðólfr brá sverði ok vildi höggva til Þórðar. Jón hljóp ok at honum Þórði ok vildi höggva til hans. Þórðr brá skjótt sverðinu ok snerist at Auðólfi ok hjó í höfuðit; fell hann þegar dauðr á gólfit. Eiðr hljóp fyrir hann Þórð, er hann sá tilræðit Jóns, ok brá fyrir hann skildinum, enn tók skikkjuna undir hönd sér. Þetta sér Þórðr ok slæmir til Jóns með sverðinu, ok kom á hann miðjan, ok tók í sundr fyrir ofan mjaðmirnar. Förunautar þeira Jóns sóttu þá at honum. Þórðr hopaði út ór búðinni ok hljóp á einn raftabulung, ok varðist þaðan vel ok skörulega. Drifu þá til her-

aðsmenn ok Borgfirðingar, ok vildu hefna þeira Auðólfs. Eiðr ferr þá at finna föður sinn, ok biðr hann at veita Þórði lið með sínum mönnum. Skeggi segir: „Hvat hefir Þórðr at hafzt þess, at hann er eigi einhlítr?“ Eiðr segir: „Hann hefir vegit tvá menn“. „Hverir eru þeir?“ segir Skeggi. „Auðólfr ok Jón“, segir Eiðr. „Hvat varð til?“ segir Skeggi. Eiðr segir: „Þeir vildu ræna hann skikkju þeiri, er hann hafði keypt, ok annarr þeira vildi drepa hann, áðr enn ek hlífða honum; ok láttu eigi þá fæð, sem á millum ykkar hefir verit, svá ríkt ganga, at þú virðir meira enn þat, at hann er ór því heraði, sem þú ert; hann er ok minn lífgjafi ok fóstri“. Þá svaraði Skeggi engu. Eiðr gekk þá á braut ok þar til sem þeir sóttu at Þórði ok brá saxinu. Ok er Þórðr sá Eið fóstra sinn mælti hann: „Hafðu þik ekki í hættu fyrir mik“. Enn er Eiðr var út genginn ór tjaldi föður síns, þá stóð Skeggi upp ok mælti: „Rýta man göltrinn ef gríssinn er drepinn“. Tók hann þá Sköfnung ok gekk þangat til sem þeir sóttu at Þórði; hafði hann varizt svá drengilega, at þeir höfðu engu sári á hann komit; enn hann hafði sært marga menn. Ok er Skeggi kom til, gekk hann svá hart at, at þeir hrukku frá, er áðr höfðu sótt at Þórði. Síðan kom Skeggi á sættum með þeim; skyldi hann einn gera um

öll málin. Hann lauk þegar upp gerðinni. Skyldi Þórðr greiða tvau hundruð silfrs fyrir víg Jóns, enn Auðúlfr falla óheilagr fyrir fjörráð ok tilræði við Þórð. Þeir menn, sem sárir höfðu orðit fyrir Þórði, skyldu hafa sár sín bótalaus fyrir fjörráð ok atsókn; ok með þessu skildu þeir. Reið Skeggi heim, þá er hann var búinn. Þórðr, reið jafnfram norðr, ok Eiðr með honum, ok töluðust þeir Skeggi ok Þórðr ekki við á allri þessarri leið. Þeir ríða þar til, er þeir koma at Miðfjarðará. Þá mælti Skeggi: „Hér munu vér af baki stíga; því at ek á við þik, Þórðr, erendi“; ok svá gerðu þeir. Þá mælti Skeggi: „Ásbjörn frændi minn bað mik vekja bónorð fyrir hans hönd, ok vill hann láta biðja Sigríðar, systur þinnar; ok vil ek nú vita hversu þú vilt þessum málum svara“. Þórðr segir: „Litla vináttu á ek við Ásbjörn; hefir þú ok mér verit engi vin hér til; ok ekki kom mér þat í hug, at þú myndir hingat leita tengda fyrir frændr þína; enn veit ek, at Ásbjörn er stórborinn maðr og ríkr, ok mikilmenni af sjálfum sér; enn eigi veit ek, hversu bræðrum mínum eða henni er þetta kaup gefit“. Skeggi svarar: „Því kveð ek þik at málinu, heldr enn bræðr þína, at ek veit, at þeir vilja þínum ráðum hlíta, bæði um þetta ok alt annat“. Þórðr svarar: „Líklegir þykki mér þeir til vera at gera eftir mínum vilja; enn ekki gef

